# Verkalýðsblaðið

6. tbl. 11. árg. 12. júlí 1982 Verð kr. 10,00

## Samningar ASÍ og VSÍ:

# STÉTTSVIK!



Frá undirskrift svikasamninganna.

**Langt er nú um liðið síðan tekið var svo sterkt til orða á síðum þessa blaðs og gert er í fyrirsögn þessarar greinar. Þó er slíkt orðalag fyllilega réttlætanlegt, þegar samkomulag Alþýðusambandsforystunnar við atvinnurekendur er skoðað. Þessir kumpánar hafa svikið alla kjarahagsmuni verkalýðsins í landinu og notfært stöðu sína sem „stéttarforingjar" í þágu auðvaldsaflanna.**

### Svikin

Tvennt er það sem einkennir samningana að þessu sinni öðru fremur. Annars vegar hefur verkalýðshreyfingin í fyrsta sinn í sögu sinni skrifað undir og samþykkt samninga sem fela í sér vísitöluskerðingar umfram það sem lög gera ráð fyrir. Í annan stað hefur sérkröfum einstakra félaga og sambanda verið varpað fyrir róða eina ferðina enn, sem gert hefur að verkum að tvö til þrjú félög hafa frestað samþykkt samninga í því skyni að ná fram viðræðum um sératriði — undir þeim þrýstingi þó að heildarsamkomulag hefur tekist og atvinnurekendum í lófa lagið að neita öllum viðræðum.

Eftir því sem meira hefur verið fjallað um samningana í blöðum hefur komið betur í

Framhald á bls. 4

## Frá III. þingi Kommúnistasamtakanna

Sjá bls. 2

# Styðjum palestínsku þjóðina! Gegn fjöldamorðum Ísraela!

**Ísraelar eru nú að fremja þjóðarmorð á palestínsku þjóðinni. Önnur ríki, arabaríki og austræn sem vestræn ríki, horfa aðgerðarlaus á með máttlausum mótmælum. Innrás Ísraels í Líbanon er sögð vera til þess að ganga endanlega milli bols og höfuðs á palestínskum skæruliðum. Hvað þýðir þetta í raun? Palestínuskæruliðar eru órofa hluti af palestínsku þjóðinni og í raun eru Ísraelar að reyna að útrýma heilli þjóð. Framferði þeirra í Líbanon hefur staðfest þetta. Þeir hafa gert árásir á sjúkrahús, elliheimili og íbúðahverfi og drepið jafnt börn og gamalmenni sem vopnfæra menn. Þúsundir fólks hafa verið teknar til fanga og sæta illri meðferð og Ísraelar meina Rauða krossinum um að veita hjálp.**

### Hvað hafa Gyðingar lært?

**Allir** mega muna þá svívirðilegu herferð er nasistar fóru á hendur Gyðingum á 4. og 5. áratugnum. Það er grátlegt



Heimili í rúst.

dæmi um hvernig mannkynið lærir af reynslunni að einmitt síonistar skuli nú beita Palestínumenn þeirri kúgun er aðrir beittu Gyðinga áður. Palestínumenn í Ísrael búa við stórskert mannréttindi, hús þeirra eru merkt, heimili þeirra og fyrirtæki sæta aðkasti — höfum við heyra svipaða lýsingu áður? Síonistar hafa tileinkað sér flest það viðbjóðslegasta úr aðferðum nasista og Bandaríkjamanna í Víetnam: Skyndihandtökur og pyntingar, flísasprengjur í leikföngum, eitrað sælgæti, sprengjuárásir á heimili og sjúkrahús, allt til að skelfa fólk svo, að það þori ekki að rísa upp.

### Afstaða annarra ríkja

Afstaða Evrópuríkja og Bandaríkjanna til Ísraelsríkis, einkennist af samviskubiti og samviskuleysi. Samviskubiti margra Evrópuríkja yfir því

Framhald á bls. 3

## Verðbólguhvatar

Sjá baksíðu

## Friður gegn risaveldum

Sjá bls. 4

# Ályktun III. þings KS

**Kommúnistasamtökin eru nú orðin að marx-lenínískum stjórnmálasamtökum er hafa með höndum námsstarf, umræður og útgáfustarf. Samtökin eru ekki lengur baráttu-og flokksbyggingarsamtök. Þau eru fámenn og hafa heldur ekki sett fram nothæfar hugmyndir um hvernig nýjum verkalýðsflokk skuli komið á fót.**

**Þau líta ekki lengur svo á að þau skuli stefna að því að sameina vinstri menn og byltingarsinna undir sín merki. Það starf verður unnið í samráði við aðra íslenska byltingarsinna og kommúnista.**

**Kommúnistasamtökin lýsa því yfir að meginmarkmið þeirra sé að standa að stofnun nýs kommúnísks verkalýðsflokks og í því skyni sé brýnast að koma af stað og efla hugmyndabaráttu vinstri manna og auka samstarf þeirra. Beri nauðsyn til eru samtökin reiðubúin til þess að leggja sjálf sig niður í núverandi mynd, er fram líða stundir.**

**Margt sameinar félaga KS og réttlætir tilveru samtakanna. Félagarnir eru sammála um stofnun hins nýja verkalýðsflokks, þeir andæfa risaveldunum, þeir aðhyllast mjög víðtæka samfylkingar- og fjöldastefnu, þeir viðurkenna nauðsyn sósíalískrar byltingar og styðja stéttarbaráttustefnu í verkalýðshreyfingunni. Í heild afmarka þessi atriði og önnur KS nægilega frá öðrum samtökum að óbreyttu ástandi. Auk þess árettar skoðanaágreiningur vinstri manna, sameiginleg reynsla félaganna og þörf á skipulagðri, styrkri stefnumótun nauðsynlegt starf Kommúnistasamtakanna.**

**Það er langætt og flókið erli að snúa saman í líflínu handa íslensku launafólki þrjá helstu þættina í henni: Sósíalíska hugmyndafræði, verkalýðshreyfinguna og íslenskar aðstæður. Með það í huga starfa félagar KS áfram að markmiðum sínum.**

**Á komandi mánuðum munu félagar KS styrkja samtökin og leggja það til við önnur samtök og einstaklinga að sósíalísk öfl taki fyrstu skrefin til árangursríkari baráttu.**

**Kommúnistasamtökin eru reiðubúin til útgáfu blaðs eða tímarits með útgefendum Neista, Raddar byltingarinnar og annarra.**

**Kommúnistasamtökin eru reiðubúin til að kanna sameiginlegt framboð sósíalista til næstu alþingiskosninga.**

**Kommúnistasamtökin vilja taka frumkvæði að áskorun til allra íslenskra róttæklinga um að halda sameiginlega ráðstefnu um stefnu og samstarf róttæklinga á þessu ári og um sósíalíska stjórnlist og baráttuaðferðir.**

**Lengi framan af var það ákvörðun hinna marx-lenínísku samtaka að vinna bug á öðrum vinstri hreyfingum með því að einangra þær og hafna öllu samstarfi. Með þessari ályktun lýsa KS því yfir að þessi afstaða hafi verið röng og að hún hafi veikt framsækna hreyfingu í landinu.**

**3. þing KS**

Í apríl og maí voru haldnir tveir fundir sem voru aðalfundir eða 3. þing Kommúnistasamtakanna. Þrír starfshópar útbjuggu úttektir á þróun samtakanna, á stöðu vinstri hreyfingarinnar og alþjóðamálum. Eftir fyrri fundinn var ljóst að megináhesla yrði lögð á að marka samtökunum verkefni í ljósi raunverulegrar stöðu þeirra og fá samþykkta yfirlýsingu um fortíð samtakanna og skilgreiningu á þeim.

Miklar umræður urðu um þessi efni og voru endanlegar tillögur að verkefnaskrá, yfirlýsingu og nýjum starfsreglum unnar upp úr tveimur allólíkum stefnuplöggum. Í atkvæðagreiðslu voru einstakar málsgreinar ýmist samþykktar eða felldar. Má segja að aðalskoðanaágreiningurinn hafi staðið um það hverju lýsa ætti yfir um framtíð samtakanna og verkefni þeirra. Til dæmis taldi minnihlutahópur að samtökin ættu að leggja allt kapp á að búa til heildstæða stefnuskrá í sumar og gefa hana út. Ættu síðan félagar að taka endanlega afstöðu til hennar og þar með samtakanna. Meirihlutinn taldi slíka vinnu mun viðameiri og ætti að vinna stefnuskrá í samvinnu við aðra. Í staðinn skyldi leggja megináherslu á að ræða Sovétríkin og reynslu sósíalískrar baráttu og svo Alþýðubandalagið.

M.a. var samþykkt að koma á fót leshringjum með haustinu og halda áfram útgáfu Verkalýðsblaðsins. Fundir 3. þingsins KS voru líflegir og ekki á félögum samtakanna að heyra að slegið skyldi slöku við. Samtökin taka í heild á samþykktum verkefnum og munu halda uppi sumarstarfi, — umræðum og blaðastarfi.

— agé.

# Starfsreglur Kommúnistasamtakanna

**1.** KS eru marx-lenínísk samtök. Þau eru náms- og umræðusamtök, en standa að auki að útgáfustarfi.

Markmið samtakanna er að efla sósíalíska hugmyndafræði og koma á fót kommúnískum verkalýðsflokki í samvinnu við önnur framsækin öfl sem tekst að sameina til þess átaks.

**2.** Samtökin starfa í einni deild. Félagar mynda með sér grunneiningar eða starfshópa eftir þörfum og verkefnum samtakanna. Sameiginlegir fundir skulu vera minnst mánaðarlega. Stofna má deildir úr KS utan Reykjavíkur.

**3.** Félagar teljast vera þeir er greiða félagsgjald, eru sammála grundvallarstefnu KS og vinna einhver verkefni með samtökunum. Þeir einir hafa full félagsréttindi. Félögum úr öðrum stjórnmnálasamtökum er heimil félagsaðild að KS í samráði við stjórn. Þeim og óháðum einstaklingum er einnig heimilt að starfa án félagsaðildar með samtökunum að ákveðnum verkefnum í samráði við stjórn.

Inntökubeiðnum skal komið til stjórnar.

Félagaskrá KS er ekki opinber.

**4.** Stjórn KS er skipuð 3 mönnum er skipta með sér verkum. Hlutverk hennar eru: a) Að skipuleggja starf KS innan og utan vébanda þeirra; b) Að hafa eftirlit með því starfi; c) Að sjá um fjármál samtakanna og VB; d) Að sjá um útgáfu yfirlýsinga og samþykkta milli félagsfunda.

Stjórnarmenn og ritstjóri VB eru opinberir talsmenn samtakanna. Ritnefnd VB skal skipuð 4 mönnum og þurfa ekki allir að vera félagar KS.

**5.** Meginregla lýðræðis í KS er þessi: Minnihluti lýtur meirihluta, samtökin lúta stjórn og félagar veita stjórn aðhald. Öllum samþykktum skal fylgt í verki ef annað er ekki fram tekið. Ekki þarf að halda skoðanaágreiningi innan samtakanna. Minnihlutaskoðunum skal tryggður fulltrúi(-ar) í stofnunum og starfshópum samtakanna. Engir starfsættir eru lokaðir félögum.

**6.** Aðalfund skal halda árlega. Verkefni hans eru venjuleg aðalfundarstörf auk annars sem félagar ákveða í samráði við stjórn.

**3. þing KS**

# Staða Kommúnistasamtakanna

Algengt er að heyra orð eins og ,,sértrúarsöfnuður'' og ,,pólitískt gjaldþrot'' um Kommúnistasamtökin. Einn félaga Baráttusamtaka fyrir stofnun kommúnistaflokks segir KS vera kreppuhrjáðustu samtök á Íslandi. Það sem er öllum þeim, sem dunda sér við að gefa KS einkunnir á borð við þessar í raun sameiginlegt, er tvennt. Annars vegar viljaleysi til þess að ræða hlutlægt og hávaðalaust ágreining innan vinstri hreyfingarinnar — hins vegar kreddufesta sem þeir nota til þess að verjast því að viðurkenna óleyst vandamál sósíalismans, svo ekki taki að örla á efa og rannsóknarhvöt hjá félögunum. ,,Sértrúnaður'' KS er í raun vitneskja og þekking á nokkrum meginatriðum marxismans sem gerir að verkum að samtökin hafna grundvallarstefnu og starfsháttum Alþýðubandalagsins og þess utan hinum sovéska andkommúnisma.

,,Pólitískt gjaldþrot'' Kommúnistasamtakanna er í raun viðurkenning á því að þróun þjóðfélaga og þróun marxisma hafa ekki haldist í hendur og menn geta ekki stundað stjórnmálastörf með því að **trúa** á valin ríki, valda menn og valdar kenningar. Þess vegna er ekki um gjaldþrot að ræða, heldur löngu tímabundna hlutlægni (raunsæi) og styrk fremur en hitt. Það liggur fyrir að nota verk helstu framámanna marxismans til þess að sanna greiningu á íslensku þjóðfélagi og alþjóðaástandinu og móta í senn þjóðlega og alþjóðlega sósíalíska stefnu fyrir Íslendinga. Það verður ekki gcrt með því að endurtaka ályktanir Komintern (Alþjóðasambandsins frá 1920-39), hanga eins og hundur á roði í hugleiðingum Trotskýs eða spegla stefnu í vanþróuðu 3. heims ríki, Kína, yfir á Ísland. Og þó Albanía sé sett í staðinn, er raunsæið jafn fjarri.

,,Kreppa'' Kommúnistasamtakanna er aðeins hálfsannleikur. Vissulega eru samtökin miklu mannfærri en áður og vissulega hafa þau afhjúpað veikleika sína: Trúarlega afstöðu mikils meirihluta félaganna til stjórnmála og litla þekkingu á marxismanum. En þessi þróun er ekki einkamál KS, heldur Akkilesarhæll annarra vinstri samtaka, þó þau leyni því eða takist um hríð að viðhald fáfræði, einsýni og trúarafstöðu sinni. Hin hlið málsins er sú að dágóður hluti félaga marx-lenínísku hreyfingarinnar skilur nauðsyn þess að unnið sé að aðkallandi nýrri stefnumótun og umræðum kommúnista og sósíalista á skipulegan hátt. Þeir eru reynslunni ríkari og búa yfir miklu hugmyndafræðilegu afli.

Í ályktun 3. þings KS (birt í blaðinu) koma fram hógværar viðurkenningar á mistökum og yfirlýsingar um vilja til málefnasamvinnu og harðra, en heiðarlegra, hugmyndafræðideilna. Slík umræða er nauðsyn en þarf ekki að koma í veg fyrir ýmsa samvinnu. Hún er þó ókleif ef vinstri menn halda sig heilaga riddara sannleikans og með allt sitt á hreinu.

**Staða KS er í fullu samræmi** við stöðu sósíalískrar og kommúnískrar hreyfingar í landinu — það er mergurinn málsins. Þeir sem neita því eru með stjórnmálablindu og eru að lyfta þungum steini í hættulega hæð yfir eigin kolli. En það skal játað að KS eru ekki á réttustu leið til að vinna sig skjótt í stórhlutverki í komandi baráttu. Meir um það síðar.

Ari T. Guðmundss.

## Sumarfrí og fleira

Þó ekki hafi tekist að halda útgáfuáætlun VB fullkomlega í vetur vegna seinkana í vélvinnslu og annarra tafa, þá var staðið við áætlaðan síðufjölda. Þetta tölublað er nr. 6 og er á áætlun í júní.

Í júlímánuði mun VB ekki koma út vegna sumarleyfa ritnefndar. Næsta tölublað verður prentað upp úr miðjum ágúst og verður það nr.7-8.

Glöggir lesendur hafa ef til vill tekið eftir því að alllöng grein ,,Hugleiðingar um eðli sósíalískra byltinga'' birtist bæði í lesbók og síðasta tbl. Þótt greinin sé áhugaverð, var ekki ætlunin að tvíbirta hana. Við setningu á blaðinu varð til misskilningur vegna þess að tvær greinar lágu fyrir eftir sama höfund en aðeins önnur var óbirt.

Ritnefnd óskar lesendum farsæls sumars.

Ritnefnd.

# Verkalýðsblaðið

| | | | |
|---|---|---|---|
| **Útgefandi:** | Kommúnistasamtökin | **Sími:** | 2 92 12 |
| **Ritstjóri** | Ari Trausti Guðmundsson (ábm.) | **Pósthólf:** | 5186 125 Reykjavík |
| **Aðsetur:** | Frakkastígur 14 | **Gíróreikningur:** | 12 200 9, Póstgíróstofan |
| **Opnunartími:** | Alla laugardaga kl. 11.00 — 13.00 | Prentað í Offsetprent | |


## Trúið ekki tali um þjóðartekjur

Hve margir skyldu vita hvernig þjóðartekjur eru reiknaðar? Þetta töfraorð sem á að gera allar kröfur launamanna um mannsæmandi grunnlaun að engu, eru í raun ósvífin fölsun á raunveruleikanum. Þjóðartekjur segja dálítið til um sveiflur í verðmætasköpun og fjárfestingum, en ekki baun **um skiptingu þessara fjármuna** milli fólksins sem selur vinnuafl sitt og hinna, sem hafa rétt til að hafa ómældar tekjur af framleiðslunni. Þess vegna er það nánast móðgun við skynsemi og mannvirðingu launamanna að segja að staðnaðar þjóðartekjur sýni að ekkert sé til skiptanna. Sannleikurinn er sá að það má klípa verulega af tekjum og eignum íslenskra burgeisa og færa til launafólks án þess að þjóðartekjur breytist hætis hót. Og um það stendur slagurinn þótt verkalýðsforingjar, platsósíalistar og atvinnurekendur leggist á eitt við að væla um græðgi eins hóps launamanna í garð annars og sitji nánast auðum höndum.

Ef launamenn láta samstöðuna fyrst og fremst snúast um að komast í vasa burgeisanna, er einhver von um árangur — og þá einungis ef hagsmunabaráttan er aðeins höfð ein hlið baráttunnar og allt gert til að koma þjóðfélagsstjórnuninni í hendur launamanna og vinnandi alþýðu einnar. Árás á burgeisana er eina svarið við þjóðartekjurausinu.

## Gengdarlaus rányrkja

Nú heitir rányrkja aflabrestur og hvarf fiskstofna af miðum er látið vera af völdum náttúrunnar. Reyndar er ýjað að rányrkju á loðnustofninum og eru þá helst fiskifræðingar sem í sér láta heyra, en því miður allt of hæversklega. Merginn málsins er sá að íslenskt útgerðarauðvald hefur engar hömlur á græðgi sinni, dyggilega stutt af ríkisvaldinu. Loðnan, karfinn og þorskurinn hafa verið ofnýttir stofnar um árabil og stór hluti ágóðans af veiðunum verið festur erlendis. Í kjölfarið hefur stórútgerðin hálfeyðilagt nauðsynlega smáútgerð og hluti hennar sjálfrar hneigist til rányrkju, þ.e. á hrognkelsunum. Og því miður eru óbreyttir sjómenn ekki saklausir af blindu á rányrkjuna vegna þess að laun þeirra eru ranglega tengd aflamagni, í stað hárra grunnlauna.

Uppskera rányrkjunnar er núna að koma fram. Hvergi í heiminum hefur auðskipulag losnað við stjórnleysi framleiðslunnar og rányrkju vegna gróðasjónarmiðsins. Það er hvorki hægt að tryggja jafna byggð um landið né skynsamlega nýtingu fiskistofna án heildarskipulags veiða og vinnslu í höndum vinnandi fólks.

## Þjóðarmorð Ísraela

**Íslenskir kommúnistar hafa stutt kröfur Palestínumanna um sameiginlegt ríki þeirra og gyðinga og baráttu þeirra af virðingu fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóða, á sama hátt og þeir styðja íbúa Afganistan, El Salvador, Póllands og fleirri landa í baráttunni gegn risaveldunum. Íslenskir kommúnistar hafa tekið afstöðu gegn hryðjuverkum sem einstaklingar eða smáhópar hafa gripið til í örvæntingu á báða bóga. En landvinningastefna og andstyggileg hrannvíg ísraelskra zíonista taka út yfir allan þjófabálk. Íslenskum stjórnvöldum og almenningi ber skylda til að leggja sitt af mörkum svo stöðva megi hinn morðóða Begin og nóta hans. — Ísraela burt úr Líbanon! Viðurkennum PLO sem fulltrúa palestínsku þjóðarinnar!**

**— agé. 15.6.**

## Styðjum PLO...

Framhald af forsíðu

sem Gyðingar máttu þola af þeirra hálfu og viðurkenningu nú á tilverurétti þeirra og um leið á ríki þeirra, en líta þá vandlega framhjá tilveru palestínsku þjóðarinnar. Samviskuleysi, því útrýming er viðtekin aðferð þeirra í samskiptum við alla þá sem eru eitthvað ,,fyrir'' þeim. Gyðingar ,,voru fyrir'' uppgangi nasista. Indíánar ,,voru fyrir'' evrópskum landnemum í Ameríku og þegar Gyðingar ,,sneru heim'' til Ísraels var palestínska þjóðin er hafði búið þar öldum saman ,,fyrir þeim''.

Þetta er kannski einföldun og útskýrir ekki allt, en það er þetta viðhorf, að allir sem standa í vegi fyrir hugmyndum þínum eða hagsmunum, eigi sér ekki tilverurétt — þetta viðhorf gerir mig svo ævareiða.

### Afleiðingarnar

Sú þjóð sem býr við slíka kúgun sem palestínska þjóðin, finnst hún ekki lengur hafa neinu að tapa — jafnvel ekki lífinu, — því líf hennar er engan veginn tryggt í flóttamannabúðunum. Það er við slíkar aðstæður sem hryðjuverkum vex fylgi og víst er að eftir innrás Ísraela í Líbanon, verða þeir fleiri sem missa þolinmæðina við að finna friðsamlega pólitíska lausn mála. Því má búast við mjög auknum hryðjuverkum gegn Gyðingum í Ísrael sem utan þess.

Verðbólga og efnahagsóstjórn er mikil í Ísrael. Kostnaðurinn af þessari herferð mun því tvímælalaust þýða aukna verðbólgu og skattpíningu.

Og síðast en ekki síst mun þetta auka enn á réttleysi og kúgun palestínsku þjóðarinnar, því málsvari hennar og brjóstvörn — PLO — mun trúlega bíða mikið áfall. Jafnframt munu grannríkin ófús að veita þeim hæli undir flóttamannabúðir vegna sífelldra árása Ísraela á þær.

### Styðjum PLO

Til eru raddir sem hafa samúð með þeirri alþýðu er líður fyrir árás Ísraela, en réttlæta útrýmingu þeirra á PLO og telja hana jafnvel nauðsynlega. Slíkt byggir á skilningleysi, því PLO eru hvergi nærri þau morðóðu hryðjuverkasamtök sem áróður sionista heldur fram. Palestínska þjóðin hefur mátt þola margfalt meira manntjón í árásum Ísraela, en nokkurn tíma Ísraelar í árásum Palestínumanna. Að segjast styðja palestínsku þjóðina en vera á móti PLO er tvískinnungsháttur, því palestínska þjóðin treystir og vill PLO. Ef við styðjum palestínsku þjóðina, þá virðum við líka leiðtoga sem hún lítur á sem sína. Það verður aldrei gengið fram hjá PLO í samningum við Palestínumenn. Styðjum PLO og vinnum að viðurkenningu þeirra og viðurkenningu á tilverurétti og sjálfsákvörðunarrétti palestínsku þjóðarinnar.

-/ess

## Endaleysu mótmælt

Í greininni ,,Vísbending til vinstri manna'' segir óhs í 5. tbl. VB að ,,Ljóst megi vera af fylgissveiflum að það (Kvennaframboðið) höfðaði einkum til vinstri krata og fyrrum fylgismanna Samtaka fr. og vi. manna''. Þar kemur einnig fram að af þessu leiði að Alþýðubandalagið geti ekki eignað sér hlut í atkvæðum Kvennaframboðsins. Við þetta vil ég gera nokkrar athugasemdir.

Auðvitað eru fullyrðingar óhs ekki byggðar á athugunum á einhverjum fylgissveiflum. SFV buðu ekki síðast fram í Rvk og voru mannfáir á Akureyri við síðustu kosningar á undan þessum. Svo voru líka nokkur þúsund ungir kjósendur að greiða atkvæði í fyrsta sinn nú í maí. Ennfremur er útilokað að skilja hvernig AB komast hjá því að tapa fylgi ef margir vinstri kratar kusu kvennaframboðin, því ekki veit ég betur en óhs hafi talið stóran hluta AB-manna til þessa hóps.

Og hvað veit óhs um það hve margir kommúnistar eða hægri kratar greiddu kvennalistunum atkvæði, þegar þess er t.d. gætt að kosningaþátttakan var mun minni nú en t.d. í síðustu alþingiskosningum og auðir seðlar mun færri en þá?

Sannast sagna er svona flumbrugangur og endaleysa til vansa fyrir okkur marx-leninista og á lítið skylt við fjöldastefnu.

Ari T. Guðmundss.

## BREYTTIR TÍMAR




Bubba-byltingin svokallaða veitti ferskum blæ inn í íslenskt músíklíf 1980. Um einstaka þætti má auðvitað deila. Opinskáir og verkalýðssinnaðir blús/rokk-söngvarnir vöktu þó fjöldann allténd upp af skallapoppsdvalanum.

Það er tímanna tákn að í dag hrekkur enginn við þegar Bubbi rokkar gegn kynjamisréttinu, atómógninni, pönktískunni, leiftursóknarstefnunni, samtryggingarkerfi hvítflibbanna, o.þ.h. Og það sem meira er: Ádeilusöngvarnir hans Bubba njóta sívaxandi vinsælda meðal almennings.

Þessi staðreynd hefur örvað aðra ádeilusöngvara til dáða. Útgáfa þjóðfélagslega þenkjandi platna er að verða hversdagslegur viðburður.

Nýlega komu t.d. með stuttu millibili út plötur með Böðvari Guðmundssyni skáldi, sönghópnum Hálft í hvoru og Heimavarnarliðinu. Á fyrstnefndu plötunni, ,,Það er engin þörf að kvarta'' syngur Böðvar frumsamda söngva við eigin gítarundirleik. Á Hálft í hvoruplötunni eru kunnir verkalýðssöngvar kyrjaðir. Og á plötu Heimavarnarliðsins ,,Hvað tefur þig, bróðir?'' er spjótunum beint gegn hernum á Miðnesheiði og annarri erlendri ásælni.

Allar eru þessar plötur í svokölluðum þjóðlagapoppstíl. Þær eru jafnframt allar í hæsta gæðaflokki hvað varðar lög, texta og flutning.

Ofan á þessa ánægjulegu útgáfu bætist að tvær framsæknar hljómplötuverslanir hafa opnað í Reykjavík, Gramm á Vesturgötu 53b og Stuð á Laugarvegi 20.

— jGuð.

NAFN ______________________________

HEIMILI ______________________________

PÓSTNR. PÓSTSTÖÐ ______________________________

☐ Óska eftir áskrift f.o.m. ____ tbl. 19____

☐ Segi upp áskrift f.o.m. ____ tbl. 19____

**Sendist til:**
**VBL**
**Box 5186**
**125 Reykjavík**

# STÉTTSVIK!

Framhald af forsíðu

ljós hvers eðlis skerðingarákvæði samninganna eru. Málgögn borgarastéttarinnar hafa fagnað þeim mjög — hafa raunar bent á þau tímamót sem í þeim felast. Öll eru þau sammála um að kaupránsstefna auðvaldsaflanna eigi hægar um framgang hér eftir en hingað til. Á næsta samningstíma munu skerðingarákvæði samninganna hins vegar hafa þau beinu áhrif að þau munu samanlagt vega upp á móti kauphækkunum og jafnvel gott betur.

### Hvers vegna?

Þeirrar spurningar má spyrja, hvers vegna samninganefnd ASÍ skrifar undir samninga á borð við þá sem nú hafa verið undirritaðir.

Nærtækasta skýringin og sú einfaldasta (þær eru gjarnan bestar) er staða pólitískra afla í verkalýðshreyfingunni. Það stjórnmálaafl sem á undanförnum áratugum hefur verið einna virkast í hagsmunabaráttunni og hefur þrátt fyrir allt staðið í fararbroddi fyrir lífskjarasókn verkalýðsins hefur fyrir löngu gengið á mála borgarastéttarinnar, bæði á pólitískum vettvangi og í verkalýðshreyfingunni. Forystulið Alþýðubandalagsins innan ASÍ er gersamlega slitið úr tengslum við líf og starf alþýðunnar sem það fer með umboð fyrir. Flokkurinn hefur hafnað stéttarbaráttunni og tekið í hennar stað upp makk og málamiðlanir við auðvaldið og keppist um að sýna því fram á að hann er engu síður en aðrir flokkar „fær" um að sitja í valdastólum ríkiskerfisins. Hagsmunir verkalýðsins eru ekki lengur andstæðir hagsmunum borgarastéttarinnar í augum þessara manna — flokkurinn hefur gert stéttarhugmyndafræði Sjálfstæðisflokksins að sinni.

### Andstaðan hjáróma

Þetta skýrir einnig hversu hjáróma andstaða ýmissa verkalýðsforingja sem sæti áttu í 72 manna nefnd ASÍ var við samningana. Verkalýðsforingjar á borð við t.d. Jón Kjartansson í Vestmannaeyjum eru sem milli steins og sleggju — annars vegar stuðningur þeirra við verkalýðsfjandsamlega stjórnmálastefnu innan verkalýðshreyfingarinnar og hins vegar samstaða þeirra með stéttarhagsmunum umbjóðenda sinna. Til þess að standa raunverulega í fararbroddi fyrir verkafólki og ganga til samninga með því hugarfari að gæta hagsmuna þess en ekki „þjóðarbúsins" verða slíkir forystumenn að segja skilið við dragbítinn, Alþýðubandalagið. Og það sem meira er, þeir verða að taka af alefli þátt í að móta nýtt stjórnmálaafl sem veitt getur stéttarbaráttusinnum innan verkalýðshreyfingarinnar þá leiðsögn sem þarf til sóknar.

### Jarðvegurinn plægður

Stéttsvik forystumanna Alþýðusambandsins sem enn einu sinni hafa krystallast í samningsgerð í þágu auðvaldsins hafa þó einn kost sem ekki má líta framhjá. Þau eru einn hornsteinninn til í grafhýsi stéttasamvinnustefnunnar — þau undirbúa jarðveginn fyrir myndun stjórnmálaafls á borð við það sem hér hefur verið minnst á. Það er ljóst ef tekið er mið af þeim fundum sem um samningana hafa fjallað, að verkafólk hafnar broddum stéttasamvinnunnar. Það treystir þeim ekki, hvorki til að stýra verkföllum til sigurs né til að standa að sómasamlegum samningum. Annað hvort sýndu fundir um samningana verulega andstöðu við þá eða almennt áhugaleysi og lélega fundarsókn, nema hvortveggja væri.

Það einkennir þó ástandið öðru fremur, umfram það sem þegar hefur verið sagt, að enn er það afl ekki til sem getur tekið við af verkalýðsaðlinum. Þótt veruleg andstaða sé fyrir hendi innan eins verkalýðsfélags við svikasamninga — þá skortir enn á að stéttarbaráttusinnar séu nógu samhæfðir og nógu markvissir til að taka forystuna í sínar hendur. Á meðan svo er er þess ekki að vænta að félagsmenn í verkalýðsfélögum hlaupi upp til handa og fóta og felli samninga.

Þetta setur hins vegar stéttarbaráttusinnum ákveðin verkefni **umfram** andófsstarf í félögunum.

óhs.

---

### Innlegg í umræðu:

# Friður gegn risaveldum

### Friðarhreyfingar dafna

Á undanförnum mánuðum hefur sprottið upp í Evrópu og Norður-Ameríku hreyfing sem letrar á gunnfána sinn andstöðu við kjarnorkuvígbúnað og vopnakapphlaup risaveldanna ásamt því að lýsa yfir einlægum friðarvilja þátttakenda. Á örskömmum tíma hefur tekist að virkja milljónir manna af öllum stjórnmálaskoðunum og trúarbrögðum til þátttöku í stórfundum og aðgerðum til að koma sjónarmiðum friðarhreyfingarinnar á framfæri.

Ekki hefur farið hjá því að hugmyndir þessarar hreyfingar hafi skotið nokkrum rótum hérlendis, enda andstaða við vopnaskak og hervæðingu landlæg.

Eins og að vænta mátti kemur frumkvæðið að þessari hreyfingu úr röðum þeirra karla og kvenna sem lengst af hafa tekið þátt í þeirri friðarbaráttu sem felst í andófinu gegn herstöðvum á Íslandi og aðild landsins að Atlantshafsbandalaginu.

Nokkurs árangurs hefur þegar gætt. Tekist hefur undir merkjum friðarnefndar SHA að smala fulltrúum allra flokka annarra en íhaldsins á fund á Klambratúni í Reykjavík, þar sem talað var og sungið gegn kjarnorkuvopnum og fyrir friði í heiminum.




**Frá friðarfundi á Klambratúni. — Ljósm/gel.**

### Íslensk vandkvæði

Hætt er þó við að stofnun öflugrar íslenskrar friðarhreyfingar verði vandkvæðum bundin. Fyrst er til að taka að íslenskur almenningur, annar en fylgishópur sósíalískra stjórnmálaafla, virðist hafa afskaplega lítinn áhuga á því sem gerist á heimsvettvangi. Þá verður ekki komist hjá því, hversu bölvað sem það kann annars að vera, að sú sprunga sem skiptir þjóðinni í tvo andstæða hópa — afstaðan til bandaríska hersins á Íslandi og til aðildarinnar að NATO — kemur til með að ráða miklu um framgang íslenskrar friðarhreyfingar.

### Veikleiki

Helsta baráttumál friðarhreyfinganna er kjarnorkuafvopnun. Í því felst bæði styrkur þeirra og veikleiki. Styrkur að því leyti að hægt er að fylkja hundruð þúsunda á bak við slíka kröfu. Veikleiki að því marki að það eru ekki vopnin sem ráða úrslitum um framtíð heimskringlunnar, heldur en það menn, stjórnmálastefnur og harðneskulegir efnahagslegir hagsmunir.

Um langan tíma hefur þessa veikleika gætt í íslenskri þjóðmálaumræðu. Í áróðri herstöðvaandstæðinga hefur gjarnan verið bent á að herstöðvar bjóði heim hættu á kjarnorkuárás, sem útrýmt gæti obbanum af Íslendingum. Hvergi hef ég þó séð þess getið, þótt ætti að liggja í augum uppi, að það yrðu Rússar sem þeirri sprengju fleygðu, né heldur hef ég greint að menn legðu út af þeirri staðreynd hvað varðar stöðu rússneska heimsveldisins á mælikvarða alþjóðamála og þar með hver afstaða íslenskra herstöðvaandstæðinga ætti að vera til þess. Hér undanskil ég að sjálfsögðu marx-lenínista sem um árabil hafa varað við einhliða afstöðu til bandaríska risaveldisins.

### Gegn báðum risaveldum

Framhjá þessum skerjum sem ég hef nú nefnt verður að sigla ef íslensk friðarhreyfing á að verða virkilega öflug. Hún verður að setja á stefnuskrá sína baráttu gegn báðum risaveldum, baráttu fyrir kjarnorkuafvopnun beggja risavelda, baráttu gegn kjarnorkuvopnum á íslenskri grund. Ef slík hreyfing á að standast sem slík og verða ekki að viðhengi við Samtök herstöðvaandstæðinga, sem mér virðist að sumir ætli henni, verður hún að geta sameinað **alla** friðarsinna, hvort sem þeir eru fylgjandi aðildinni að NATO eða ekki, hvort sem þeir eru hlynntir herstöðinni á Miðnesheiði eða ekki. Það er firra að álíta að herstöðvaandstæðingar og andstæðingar NATO séu einu friðarsinnarnir á Íslandi.

Ef þessi hreyfing á einhvern tímann að móta afstöðu til hefðbundinna mála herstöðvaandstæðinga verður slík afstaða að grundvallast á mikilli umræðu sem fer fram í fyllsta bróðerni. Ef henni verður í upphafi troðið upp á hreyfinguna verður hún andvana fædd, henni mun ekki takast að höfða til annarra en þeirra sem nú styðja málstað Samtaka herstöðvaandstæðinga. Þá yrði til lítils barist.

Þessa grein sem ég hef nú sett saman má að nokkru leyti líta á sem svar við grein Soffíu í 3.—4. tbl. Verkalýðsblaðsins. Ég svara raunar ekki öllum spurningum sem hún leggur fram, sneiði kannski snyrtilega framhjá sumum. Sem innlegg í umræðuna ætti greinarkorn þetta þó að duga.

óhs

# PUNKTAR utan úr heimi

**Heimsfriðarráðið** (ásamt íslenska útibúinu kringum Maríu Þorsteinsdóttur) mun eins og áður hefur verið greint frá, halda friðarráðstefnu í Kabúl. Heimsþingið verður í Prag 1983. Á þessu ári verða skipulagðar stuðningsherferðir fyrir Viet Nam, og stjórnvöldum í Kampútseu og Laos. Ráðið lýsir sérstökum stuðningi við baráttu Afganistans, Viet Nams, Eþíópíu og Kúbu fyrir friði og frelsi. Þetta ráð hefur víða ítök í friðarhreyfingunni (WPC: Programme of Action 1982)

**„Eins flokks kerfið"** er sniðið að afrískum aðstæðum, og það ekki bara á Zimbabwe. Afríku var skipt eftir nýlendumörkum, og upp komu andstæður milli svæða, þjóða, ætta og fjölskyldna. Þær ráða miklu um flokkamyndun. En Zimbabwe er stýrt af fjöldaflokkastjórn vegna þess að við viljum ekki neyða einflokkskerfi uppá fólk og uppbyggingin krefst mikillar samvinnu" (Justin Nyoka, í upplýsingadeild stjórnarinnar, Klassekampen nr.107)



**Í maí 1980** fór borpallurinn Treasure Seeker yfir 62 breiddargráðu á leið til Tromsøgrunnsins. Olíuæðið hafði náð til Norður-Noregs. Fyrir Alstahaugsveitarfélagið þýðir það aukakostnað á vinnustöðum á borárstiðum. Tekjurnar eru hins vegar ekki eins vissar.

**Í Noregi** eru til almenn fjöldasamtök sem skipta sér af áhugamálum almennings í mun meiri mæli en t.d. á Íslandi. Nýlega tókst samtökum um aðra lífsstefnu en kristni að fá reglur um kristnifræðikennslu í skólum rýmkaðar enn frekar en áður var. Þá hefur sterk hreyfing gegn hassi og öðrum skyldum vímugjöfum, verið mjög virk og samtökum gegn niðurlægjandi klámi tókst að fá tvo helstu heildsalana í bransanum dæmda. Hér hafa hugmyndir um starf þessu skylt, ekki komið til framkvæmda.

**Í Bangladesh** hafa tvær stórar marx-lenínískar hreyfingar sameinast. Er það liður í svipaðri þróun þar í landi. Samtals eru tugþúsundir í samtökum þessum en unnið er að því að ná tveimur til viðbótar í hópinn svo stofna megi nýjan kommúnistaflokk í landinu (Fréttabréf RCLB). RCLB))

**„Ég hef** um árabil verið mótfallinn valdbeitingu. Þess vegna finn ég mig knúinn til þess að segja að ég tel hana vera skársta kostinn ef við tökum öll höndum saman við að andæfa hernáminu". (Hinn þekkti baráttumaður í Póllandi, Jacek Kuron í bréfi til Pólverja Klassekampen nr.15).

**50.000 víetnamskir** verkamenn hafa verið fluttir til Comeconlanda sem vinnuafl. Er þetta liður í að greiða skuldir Viet Nams. Talan mun ná 100.000 árið 1986. (Klassekampen nr.117).

**Undirokunin** í Guatemala er jafnvel verri en í El Salvador. Samfylking fjögurra þjóðfrelsishreyfinga (OPRA) stendur fyrir vopnaðri baráttu í 19 af 22 héruðum landsins. Stuðningur að utan er afar lítill. Herforingjastjórn landsins er hins vegar með sérstakan vopnasölusamning við Ísrael. (Klassekampen nr.114).

**ASELA**, samtök pólitískra flóttamanna frá Bólivíu, Argentínu, Chile, Paraguay og Uruguay í Noregi styðja kröfur Argentínu um yfirráð yfir Falklands- eða Malvín-eyjum. (Klassekampen nr.120)

**Á Norðurlöndum** starfa bæði El Salvador-nefndir og Afganistan-nefndir. Þær fyrrnefndu eru studdar starfi margra stjórnmálasamtaka, en þær síðarnefndu eiga mun erfiðara uppdráttar. Hugleiðum ástæðurnar og hugleiðum hvers vegna slík nefnd starfar ekki á Íslandi.

**Sex milljónir** hektara af landbúnaðarlandi eyðileggjast á hverju ári. Það mun kosta um 15 milljarða kr. að stöðva þessa þróun eða tvöfalda ársfjárfestingu norskra fyrirtækja á Norðursjó. Nú er hlutfall milli þjóðarframleiðslu iðnríkja og þróunarlanda 1:11 en verður **1:14.5 um aldamót** ef svo heldur fram sem hoirfir. (Klassekampen nr.109).

**Atvinnuleysi** í apríl 1982 í Bandaríkjunum var sem hér segir: 10 milljónir eru atvinnulausir og mun fjölga um 10% á eftirlifandi mánuðum ársins. 18.4% blökkumanna eru atvinnulausir og þar af eru 25% milli 16 og 19 ára að aldri. (The Call, apríl).



**Sovétmenn** nota særða afganska hermenn og skæruliða sem tilraunadýr við lyfjatilraunir. Af þeim hafa 116 látist. Þá hefur fósturgöllum fjölgað fimmfalt vegna eiturgashernaðar. Um 200 læknar eru eftir í Afganistan af 1600, aðrir hafa flúið eða látist. (Skv. heimildum lækna í Pakistan, sjá Klassekampen nr.109).

**Skæruliðar** ráða nú 40% af Kampútseu og sókn Víetnama og stjórnarinnar hefur mistekist. (Kieu Samphan, Klassekampen nr. 121).

| | |
|---|---|
| Lausasala 4 síður: | Kr. 10 |
| Lausasala 8 síður: | Kr. 15 |
| Lausasala 12 síður: | Kr. 20 |
| Áskrift: | Kr. 150 |
| Stuðningsáskrift: | Kr. 200 |
| Áskrift til útlanda: | Kr. 200 |

Gíró: 12200-9

# Verkalýðsblaðið

6. tbl. 11. árg. 12. júlí 1982


# Verðbólguhvatar

**Í greininni „Tengsl einokunar og verðbólgu" í 3.-4. tbl. var gerð grein fyrir heppilegum vaxtarskilyrðum almennt fyrir verðbólgu í nútímaþjóðfélagi. Minnst var á hvata verðbólgu. Almennt séð eru barátta og átök milli hópa með andstæða efnahagslega hagsmuni slíkir hvatar eða skapa slíkum hvötum skilyrði til áhrifa. Hver hópur vill hækka sitt verð en þótt kostnaðarlækkun komi til vill hann ekki lækka verð. Í samfélagslegri keppni reynir hver hópur að ná einhverri raunverulegri hækkun. Valdatæki hópsins ráða hversu auðvelt hann á með það. Oftast er auðveldara að ná fram hækkun en að fá henni eitthvert raunverulegt gildi er erfiðara. Raunverulegt gildi er að annað verð hækki ekki til jafns. Þetta á t.d. við um verð vinnuafls. Verðið á því (laun) fæst hækkað en annað hækkar líka.**

Mikilvægustu mótsetningar í þjóðfélagi okkar sem skapa slíka verðhækkanahvata eru líkast til:

a) sjálft einokunarferlið.

b) átök milli stéttar atvinnurekenda og verkalýðsstéttarinnar um skiptingu gæðanna og er það grundvallarmóthverfan í öllu saman.

c) átök milli ríkisins og restarinnar af efnahagskerfinu.

d) mismunandi hagsmunir þeirra sem framleiða iðnaðarvörur og þeirra sem sjá um framleiðslu hráefnis, svo sem veiðar. Þetta er jafnframt partur af mótsetningunni milli iðnaðar- og þróunarlanda.



Raunverulegt vald verkalýðsstéttarinnar er lítið.

## Baráttan á milli einokunarhringja

Einokun getur skapað mikinn gróða eins og lýst var í grein í síðasta blaði. Ef einokun er mikil verður vald fyrirtækisins eða samsteypunnar til að ákveða markaðsverð líka mikið. Jafnvel þó að verðhækkun í atvinnugreininni geti valdið bakslagi hjá henni að nokkrum tíma liðnum með auknum kostnaði mun fyrirtækjum í í greininni takast að halda í þau hækkuðu gróðamörk sem ollu fyrstu verðhækkuninni. Hátt stig einokunar (einokunarstig er útskýrt í síðustu grein) gefur færi á verðhækkunum í því skyni að auka gróðann og er einokunarstigið þannig mikilvægur verðhækkana- og verðbólguhvati. Áður fólst samkeppni milli fyrirtækja í því að selja á sem lægstu verði. Nú koma til fleiri tilhneigingar svo sem gæði þjónustu og auglýsingar.

En enn fleira kemur til. Við skulum athuga tilvik án tillits til mögulegra keppinauta sem [redacted] greinina. Við höfum í dæminu tvo einokunaraðila sem framleiða hvor undir sínu vörumerki. Þeir keppa um sömu kaupendur. Við eftirspurn eftir vörunum meta kaupendur verðmismun á milli vörumerkjanna tveggja, en vegna þess að þeir eru vanir að kaupa aðra tegundina frekar en hina má verðið breytast ofurlítið innbyrðis áður en kaupendunum dettur í hug að skipta. Þetta vita einokunarfyrirtækin þannig að hvort fyrirtæki um sig hefur tilhneigingu til að verðleggja vöru sína nákvæmlega upp að því marki sem fælir kaupendur ekki frá. Þá getur hitt fyrirtækið líka hækkað sitt verð. Það mun auka nettógróða þess án þess að það missi kaupendur. Þetta ferli verður mikilvægur drifkraftur í verðbólguþróuninni.

## Andstæðan milli auðmagns og vinnu

Þetta er andstæðan milli tveggja höfuðstétta þjóðfélagsins: atvinnurekenda sem ráða yfir fjármagninu og verkalýðsstéttarinnar sem ræður yfir vinnuaflinu. Það er ljóst að verkalýðurinn getur fengið launin hækkuð í gegnum fagfélögin. Svarthöfði og aðrir slíkir bölva þeim oft fyrir að hafa tekið að sér einokunarstöðu við sölu vinnuaflsins.

Hækkun á launum eða með öðrum orðum hækkun á verði vinnuafls er mikilvægur verðhækkanahvati. Kostnaður fyrirtækjanna hækkar og ef gróðahlutfallinu er haldið óbreyttu (sem fyrirtækin auðvitað kappkosta að gera) hækkar verðlagið.

Hvatinn að launahækkun er mjög gjarna fyrri verðhækkun.

En á meðan verkamennirnir reyna að halda kaupmættinum óbreyttum stuðla þeir að því að verðbólguhjólið haldi áfram að snúast. Aðstaðan er erfið. Ef þeir fara ekki svona að þá minnkar kaupmátturinn.

Að tala um aðgerðir eins hóps sem **orsökina** fyrir verðbólgunni er marklaust og út í hött, einungis til að finna syndasel eins og lýst er í upphafi síðustu greinar. Það er sjálft kerfið sem veldur verðbólguferlinu og enginn hópur, hvorki verkamenn né einokunarfyrirtæki, hefur efnahagslega hagsmuni af því að hoppa af verðbólguhjólinu á fullri ferð.

Raunverulegt vald verkalýðsstéttarinnar í launabaráttunni er lítið. Launahækkunin er fljótt étin upp með verðhækkunum á markaði þar sem einokun ræður miklu.

Hér eru sífelld styrkleikapróf á ferðinni. Er hægt að auka kaupmáttinn? Hækka fyrirtækin verðið minna til að forðast óró á vinnumarkaðinum? A.m.k. myndi verðbólgan ekki endilega lækka þótt verkamenn hættu að krefjast hærri launa því að aðrir verðbólguhvatar myndu halda áfram að starfa. Hér verður þó staðar numið að sinni í þessum bollaleggingum.

## Skattapólitík

Með skattastefnu getur ríkið bæði búið til verðhækkanahvata og gefið út fyrirskipanir sem virka til að halda við hinu sjálfvirka ferli. Fyrirtæki munu t.d. leitast við að velta rekstrarsköttum yfir í verðlagið. Hærri rekstrarskattur, t.d. launaskattur, veldur því trúlega hærra verðbólgustigi.

Tekjuskatturinn hefur áhrif á launakröfur því að launabaráttan snýst auðvitað um að viðhalda lífistandard einstaklingsins eða auka hann. Hækkun á söluskatti og tollum virkar eins.

Ekki mun á því vafi að það virka saman miklar framkvæmdir ríkis og verðbólga því að ríkið er oft fremur aðili að framkvæmdum ef illa árar og til að halda uppi atvinnu.

## Hráefnisframleiðslan

Verð hráefna hvers konar fer mjög eftir eftirspurn og framboði er almennt ótryggara en á öðrum vörum. Hér á landi er verðstjórnun á landbúnaðarvörum og fiski þannig að þessar vörur breytast lítt í verði þótt framboð á þeim breytist. Aftur á móti hafa erlendar verðhækkanir áhrif eins og t.d. olíuhækkunin.

Við höfum nú litið almennt á málin en í næstu grein verður e.t.v. hægt að líta á orsakir verðbólgunnar á Íslandi sl. áratug og reyndar lengra aftur í tímann. Stefnt er að því að birta þá grein síðar á árinu.

(Í þessari grein er eins og í fyrri greininni stuðst aðallega við Iversen og Moene: „Prisfastsetting og inflasjon" í **Materialisten** 7/2 1979 20-34)

Tekið saman af KrKa og Baldri

# Rukkunarhornið

## Sinnið gíróseðlunum!

Rukkun gjalda á Reykjavíkursvæðinu liggur að mestu niðri í sumar en tekið verður til óspilltra málanna í september og október. Nokkrir gíróseðlar verða sendir út um þessar mundir og er fólk beðið að flýta sér að borga þá.

## Breytt heimilifföng

Þarf að tilkynna til að tryggja skilvísa afgreiðslu blaðsins. Vinsamlega skrifið því að það er svo sjaldan sem einhver er við símann hjá okkur. Látið gamla heimilisfangið helst fylgja því að það auðveldar okkur breytinguna.

## Kynningaráskrift

Við munum nú til að reyna að auka útbreiðslu blaðsins senda það ýmsum sem við ætlum að vilji kynna sér það um stundarsakir. Reglan verður þannig að 3 blöð verða send ókeypis. Biðjum við þá sem ekki vilja gerast áskrifendur að senda okkur tilkynningu þar að lútandi ella munum við senda blaðið áfram og rukka með venjulegum hætti (póstkröfu). Jafnframt biðjum við velunnara okkar að senda okkur ábendingar um þá sem myndu e.t.v. vilja slíka kynningaráskrift.

Áskrifendaskráin

PS. Athugið verðhækkun 1. júlí. Tilkynnt á baksíðu.

Gjaldkeri